# Sú andliga Trúlofun.

Fyrir Spámannsins Hóseasar munn í 2. Kap. segir Drottinn Gud til sérhvørrar sannrúadrar sálar: „eg vil trúlofa mig þér í réttlætinu, í dóminum og í miskunnseminni!“ O. sæl er sú sála, sem þessarar Guds trúlofunar eilífliga nýtur! En hana batt hann vid oss fyrst í skírninni, og hefur hana sídan trúliga haldid, og halda mun allt til endalyktar. Nú af því þessi Guds trúlofan vid sálir vorar gagnar oss þó ekki ad fullu, nema sjálfir vér, einsog trúlofud brúdur, høldum trygdir vid hann, aptur á móti; því er þér sem inngékkst þennan trúlofunar sáttmála vid þinn Gud í skírninni, og sem þú endurnýadir aptur í fermíngunni, stærsta þørf á ad vita, hvørt þú vid Gud þinn, sem er þinn Frelsari Jesús Kristur, hefur réttiliga trygdir haldid, edur ei, og hvørsu þú skulir ad því fara framveigis, svo þú ekki missir þessa þíns sálar brúdguma ást og kjærleika. En svo sem þú átt alla þína lukku til hans ad sækja og honum ad þakka, svo skaltú þad og svo af honum læra, hvørsu þú skulir þinn trygda sáttmála vid hann halda. Hvad gjørir hann þá á sína sídu? hvad seigir hann sjálfur?

Fyrst segir hann: „Eg vil trúlofa mig þér í réttlæti.“ En hvørt er þá þetta réttlæti? Pad er sjálfs hans dýrmætu forþénustu réttlæti, hvørt hann afrekadi þér med sinni blódugu pínu og dauda, en gaf þér til fulls eigindóms, þegar hann trúlofadist þér í

skírninni. En svo sem hann gaf þér nú þennan allra dýrmætasta fésjóð af elsku til þín, svo verdur þú eins ad byggja hann og brúka, med sannri elsku til hans, aptur á móti. Þú verdur ad geyma fésjóð þennan í innstu fylsaum hjarta þíns, og það med lifandi trú á hans fridþægíngu; med hreinustu elsku fyrir hans manndómstekníngu; med glødustu von um hans fyrirheita uppfyllíngu; med hjartans þakklæti fyrir alla hans nádar veitíngu; med súsustu hlýdni vid alla hans sannleiks kénníngu; og med ljúfustu þolinmædi undir allri hans kjærleiks hyrtíngu.

Þarnæst segist hann trúlofa sig þér í dómi. Þetta skal berliga minna þig á það, ad þessi þinn brúdgumi er, af sínum Fødur settur til ad vera, dómari lifendra og daudra. Hann sem þig svo heitt elskadi, ad hann dó fyrir þig, mun sjálfur loksins dæma þig. En svo framarliga þú ekki vísvitandi brýtur trygdir vid hann, mun hann í þeim dómi þér nádugur verda. Varastú því, ó manneskja! ad gjøra þig dómsseka med nokkrum ásetníngs syndum á móti honum, medan þú lifir hér í því andlega trúlofunar standi, svo hann ekki, þegar brúdkaups dagurinn skal byrjast, neydist til ad útreka þig frá sínu augliti, med þeim ødrum sem trygdir hafa vid hann rofid, og þær aldrei réttiliga aptur endurnýjad, ádur enn dagur hans dýrdar tilkomu upprennur. Dæmdú þig þessvegna sjálfa, med sannri ydrun fyrir syndir þínar dagliga, svo Jesús ekki þurfi ad dæma þig frá sínum dýrdar samvistum eilíflega. Dæmdú sjálf hvad hollast er lífi þínu, medan þú lifir, svo hann tildæmi þér í daudanum, það sem þér hollast er, ádur þú mæta skalt fyrir hans dómi.

Í þridja lagi segist Jesús vilja trúlofa sig þér í miskunsemi. Það flýtur af því undanfarna. Fyrst hann hefir géfið þér sitt réttlæti, og ef-þú fast-heldur því, þá hlýturðu eflaust og svo að eignast hans miskunsemi. Fyrst hann hefur trúlofað sig þér, áður enn hann verður þinn dómari, þá hlýtur fyrir víst hans miskunsemi þér í hans dómi að mæta, og þig sáluhólpna að gjøra. En haf þá sjálf miskunsemi við sálu þína, og slít hana ekki með ydrunarleysi og drottnandi syndum úr miskunarfaðmi Jesú, meðan þú lifir; því eptir því sem þú, kjæra manneskja! leitar miskunar sálu þinni hjá Jesú, eptir því muntú hans miskunar í dauða og dómi njótandi verða. O! sparaðú því ekki að leita hennar, en leita hennar þó réttiliga, eptir hans Evangelió! leita hennar því: Fyrst með lifandi trú á hans blóðugu forþénustu, með hvørri hann afrekað hefur þér rétt til sinnar miskunar eilífl ega. Þarnæst leita hennar með hreinni elsku til þessa þíns sálar brúdguma; hvør elska, ef sønn er, mun og skal af sér fæða:

a) Inniliga laungun og eptirlæti af að heyra og lesa og yfirvega hans heil. orð, með hvørju hann ávarpar sálu þína og talar við hana, líka sem einn brúdgumi við sína brúði.

b) Ástundun í að tilbiðja hann og ákalla, lofa hann og vegsama; og þetta því heldur, sem bænin er sá eini máti og aðferð hér í lífi, með hvørjum þú gétur samtal átt við þennan þinn brúdguma; til hvørs samtals við hann, þig mun því heldur og optar fýsa, sem þú elskar hann af hreinara hjartalagi.

c) En framar mun elskan til Jesú af sér fæða, andaktarfulla brúkun hans heil. Kvøldmáltíðar, í

hverri hann mettar þig og drykkjar með þeim dýrmætustu kræsingum hér í sínu náðar-ríki. Og loksins:

d) Stöðuga og viljuga hlýðni við hans guðdómligu boðorð; svo þú í öllum greinum, til hugrenninga, orða og verka, bæði í meðlæti og mótlæti leitast við að gjöra eptir hans vilja.

Ef þú nú svoleiðis lifir og líður í heiminum, mun sála þín vissuliga, sem hans trúlofuð brúður, innleiðast að lyktum í hans eilífa dýrðar brúðkaup á himnum. Hvað hann sjálfur vyrðist þér náðarsamligast að veita, sakir sinnar egin dýru forþénustu. Amen!

---

Blessaði Brúðguminn, sem býrð á himna trón, mildasti Jesú minn! mér veittu nú þá bón: að meðan eg aldur á, ala í heimi hér, stundi vel trygðir tjá, svo tapist ei náð þín mér!

Mér er svo mjög hætt við, að muna' ei til elsku þín, nema þú leggir lið, og lífgir upp sálu mín; æ láttú anda þinn, inntaka hjartað mitt, svo komast mér auðnist inn, í dýrðar brúðkaup þitt!